# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, FEBRÚAR 1895. Nr. 12.

## Davíðs sálmr 148.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

---

Lag: Heiðra skulum vér herrann Krist.

1. Lofa drottin, þú himins her,
himin, jörð og hvað skapað er;
lofið hann, allir englar hans,
öflugar hetjur skaparans.
Sé drottni dýrð!

2. Lofið drottin, þér hnatta hjól,
heiðrið drottin, þú tungl og sól,
göfgið þér drottin, tignartjöld,
tignið þér drottin, stjarna fjöld.
Sé drottni dýrð!

3. Lofið drottin, þú land og sjór,
lofið drottin, þú hagl og snjór;
leiftr og þrumur, lofið hann,
lofið þér, stormar, skaparann.
Sé drottni dýrð!

4. Lofið drottin, þér fjöll og fell,
fossar, elfir og jökulsvell,

dalir og hlíðar, gil og grund,
grösin á engi, blóm í lund.
Sé drottni dýrð!

5. Lofið drottin, þér fugla fjöld,
fiskar sjávar um djúpin köld;
allt það, sem lifir ofar fold.
allt það, sem skríðr djúpt í mold.
Sé drottni dýrð!

6. Lofa drottin, þú lífsins hjörð,
lágir, háir á allri jörð;
ungir og gamlir, syngið sœtt,
sveinar og meyjar, gjörvallt fœtt.
Sé drottni dýrð!

7. Lofa drottin, þú lífið allt,
lífsins skapara þúsundfalt;
allt það, sem bærist heims um hring,
heiðr og lof þeim drottni syng!
Syng drottni dýrð!

---

# FRELSI.

Það er mikið talað um frelsi á þessum tímum. Það hefir aldrei á liðnum öldum nærri því eins mikið verið talað um frelsi — almenningsfrelsi — í heiminum eins og einmitt nú. Frelsi er líklega það orð, sem nú á tímum er meira talað um og meira ritað um en flest, ef ekki öll, af hinum svo kölluðu „stóru“ orðum í mannlegu tungumáli. Og af því að svo mikið er um þetta mikla orð talað og ritað, þá ætti maðr að mega ganga út frá því, að meira væri líka um það hugsað en flest annað. Og það er líka sannarlega vert að hugsa mikið um þetta orð — *frelsi*, því það táknar nokkuð, sem í sjálfu sér er mjög eftirsóknarvert. Frelsi er einhver sú dýrmætasta eign, sem nokkur maðr getr átt. Án frelsis er ómögulegt að vera sæll. Án frelsis getr manneðlið ómögulega notið sín. Án frelsis getr maðr-

inn ekki náð þeirri andlegu tign, sem hans eigin meðvitund segir honum að honum sé ætlað að ná. Án frelsis getr maðrinn naumast verið maðr. Ófrelsið gjörir út af við manninn í mönnunum. — Og nú er heiminum í heild sinni farið svo mikið fram, að hann er farinn að sjá þetta, og af því hann er farinn að sjá það, þá er nú meir hugsað og ritað og rœtt um frelsi en nokkurn tíma áðr. Hinar liðnu aldirnar töluðu um frelsi, fyrir einstaka menn og mannflokka. En nú gengr frelsishugsunin og frelsistalið miklu lengra. Nú er almenningsfrelsi á dagskrá nálega um öll lönd heimsins.

En þó að þetta stóra orð, *frelsi*, sé nú efst á dagskrá, einnig meðal vors þjóðflokks, og þó að guðlegri forsjón sé sannarlega fyrir það þakkanda, að vér í þessu tilliti lifum á betra tíma heldr en þeir lifðu, sem á undan oss eru hnignir til moldar, þá væri hraparlegr misskilningr að ætla, að sönn hugmynd um frelsi sé að sama skapi útbreidd nú meðal alþýðu manna eins og mikið er talað um frelsi nú orðið almennt. Mikið af skrafi fólks um frelsi er hégómi og heimska. Margt það, sem menn kalla frelsi og berjast fyrir í frelsisins nafni, er argasta ófrelsi. Og margir reyna til að telja sér og öðrum trú um, að það sé óþolanda ófrelsi, sem í rauninni er sannarlegt frelsi. Menn búa einatt á þessari frelsisöld til grýlu úr því, sem í sannleika er frelsi, með því að kalla það ófrelsi. Og á hinn bóginn klæða menn oft það, sem er greinilegasta ófrelsi, í skínanda búning og skrifa með gylltu letri utan á þann búning orðið *frelsi*. Og svo verðr afleiðingin af þessu, að heilir hópar fólks eru að elta skugga frelsissælunnar og hreppa loks, þegar þeir hafa náð honum, reglulega ófrelsisvansælu. Vér förum víst ekki með neinar öfgar, þótt vér segjum: Í hvert skifti, sem hér í vorum íslenzka mannhópi hefir verið komið með eitthvert verulega gott og uppbyggilegt almenningsmál og menn verið beðnir að styðja það, þá hafa allt af heyrzt fleiri eða færri raddir, sem hafa leitazt við að fá menn til að trúa því, að nú væri verið að smeygja ófrelsi inn á meðal almennings, og af því að hér væri ófrelsi á ferðum, þá skyldi menn nú standa á móti. Og svo hafa vitanlega eigi fáir orðið, ef ekki opinberlega, þá í laumi, á móti. Og á hinn bóginn: þegar einhverjum hefir dottið í hug að ota fram einhverju illu og skaðlegu máli, þá hefir það vana-

lega verið gjört í nafni frelsisins, og hafi það á annað borð fengið nokkra stuðningsmenn, þá hafa þeir yfir höfuð borið það fyrir, að þetta mál yrði menn endilega að styðja frelsisins vegna. — Eigi þarf að fara út fyrir hina kirkjulegu kristindómsbaráttu vora, til þess að leita að sönnunum fyrir því, sem nú var sagt. Að svo miklu leyti, sem barizt hefir verið á móti kirkju vorri, þá hefir sú mótspyrna fremr öllu öðru verið studd með þeirri staðhœfing, að kirkjan kœmi með ófrelsi, og því væri sjálfsagt að vera á móti henni. Og að svo miklu leyti sem barizt hefir verið fyrir vantrú og guðleysi, þá hefir sú barátta verið réttlætt með því, að frelsi — andlegt frelsi almennings — útheimti slíka baráttu.

það var dimm ófrelsisöld, þegar Jesús Kristr stofnaði ríki sitt í heiminum. Hann kom með sinn frelsisboðskap á þeim tíma, þegar þetta orð, *frelsi*, var varla til í tungumáli almennings. Gyðingalýðr hafði um margar aldir búizt við frelsara, einstaklegri, guðlegri persónu, Messíasi, er ætti að veita þjóðinni frelsi. En þegar svo Kristr kom, var eins og enginn hugsaði um neitt annað frelsi en það, að losna undan pólitiskum yfirráðum og kúgunarveldi Rómverja. Og er það sýndi sig, að Jesús þessi, er vitnaði um sig að hann væri nú einmitt sá hinn sami Kristr, sem allt gamla testamentið hafði um spáð, ætlaði ekkert slíkt frelsi að veita þeim, þá hneyksluðust þeir á honum, hötuðust við hann og heimtu hann krossfestan. En frelsisins boðskap kom hann með engu að síðr. Hann lifði fyrir þá miklu guðlegu hugsan, að gjöra mannssálirnar frjálsar, og hann dó hinum kvalafulla krossdauða til þess að hið guðlega frelsi gæti orðið allsherjar-eign mannkynsins.

„þitt orð er sannleikr“, sagði Jesús við hinn himneska föður sinn í bœninni rétt áðr en píslarsaga hans hófst. Og áðr hafði hann sagt við Gyðinga: „Sannleikrinn mun gjöra yðr frjálsa“. það er œðra frelsi en allt annað frelsi, sem Jesús talar hér um. það er frelsi frá synd og óguðleik. það er undirstöðufrelsi undir allt annað sannarlegt frelsi. Ekkert annað frelsi fullnœgir manninum, svo framarlega sem þetta undirstöðufrelsi vantar. En sé þetta undirstöðufrelsi Jesú Krists eign manns, þá má lifa, og það jafnvel lifa sæll, þó að margt annað frelsi vanti eða sé af mjög skornum skammti.

það er átakanleg hugvekja frelsinu viðvíkjandi, það atriði píslarsögunnar, sem segir frá því, þegar alþýða Gyðinga beiddist þess, að Barrabasi væri gefið frelsi, en heimti, að Jesús væri krossfestr. Ástœða er til þess út af því, að hugsa um þetta merkilega og dýrmæta orð, *frelsi*, og það, hve hræðilega er einatt með það orð farið af almenningi. Myndirnar af öðrum eins höfuðpersónum í hinni miklu sorgarsögu eins og þeim Kaífasi og Pílatusi standa yfir höfuð úthleyptar eða með lifandi litum afmálaðar fyrir hugskotssjónum kristins almennings — mönnum til æfinlegrar viðvörunar. það er vel og gott. En ekki ætti menn út af þeim myndum að gleyma uppdrætti guðspjallasögunnar af almennings-hugsunarhættinum meðal Gyðinga á sama tíma og þeir Kaífas og Pílatus komu til sögunnar. Sízt ætti alþýða nú að gleyma því, hvernig alþýðan þá kom fram. Menn ætti nú vel að taka eftir því, hvernig alþýðan þá fór með frelsi sitt. Allir ætti á þessum alþýðustjórnartíma að hafá það hugfast, hvað almenningr gjörði, þegar Pílatus, í von um að sleppa hjá því að breyta á móti betri samvizku, ef hann skyti málinu undir almenningsálitið, bauð alþýðu að kjósa, hvor þeirra Jesús eða Barrabas skyldi gefinn laus. Einu sinni hafði þó alþýða í Ísrael frelsi. Einu sinni mátti hún hún þó ráða á þeirri ófrelsisöld. Einu sinni er þýðingarmesta málinu í mannkynssögunni skotið undir vilja almennings. Einu sinni var þó almenningsálitinu af þeim, sem annars réðu öllu, leyft að verða ofan á. Og niðrstaðan, sem náðist í máli því, sem hér var um að rœða, við það að almenningr fær að ráða, er það, að hinn heilagi og réttláti er deyddr, en illmennið og óbótamaðrinn er gefinn laus. þvílík hörmuleg niðrstaða! þvílík hræðileg misbrúkun á frelsinu! þvílíkt ógrlegt almenningsálit! Gætum að: þeim Kaífasi og Pílatusi er vanalega kennt um krossfesting og dauða Jesú. Og víst dettr oss ekki í hug að halda vörn uppi fyrir hinni lúalegu og samvizkulitlu framkomu þeirra. þeir hafa vissulega sinn dóm með sér, og hann ekki léttan. En eftir því er vert að muna, að Kaífas gat ekki, þótt hann vildi, ráðið því, að Jesús væri líflátinn, og Pílatus vildi það ekki, þótt hann hefði vald til þess, því samvizka hans sagði honum, að Jesús væri saklaus. Og með öllu sínu trúleysi vildi hann ekki dœma Jesúm til dauða þvert á móti rödd samvizku sinnar. Hann

vonast eftir, að ef hann skjóti málinu undir dóm alþýðu, þá sleppi hann við vanda þann, sem hann fann sig nú vera í. Það var siðr hvert ár um páskaleytið, að hinn rómverski landstjóri náðaði einn bandingja af þjóðflokki Gyðinga. Svo lætr þá Pílatus leiða þessa tvo, ræningjann og morðingjann Barrabas og Jesúm frá Nazaret, fram fyrir lýðinn og spyr: „Hvorn þessara tveggja viljið þér nú, að eg geti yðr lausan?" Hann bjóst við, að þeir bæði hiklaust um Jesúm. Nei, þeir biðja í einu hljóði um Barrabas. Aldrei í mannkynssögunni hefir almenningsálitið orðið sér eins hróplega til syndar og skammar eins og í þetta sinn. Hér átti almenningsviljinn kost á að hindra það hryllilegasta illverk, sem nokkurn tíma hefir verið unnið. En í stað þess heimtar hann, að þetta illverk sé einmitt unnið. Alþýðuviljinn dœmir Barrabas til lífs, en Jesúm til dauða. Alþýðu Gyðinga er eitt augnablik veitt frelsi, og þá dœmir hún þennan himinhrópanda dóm.

Það er annars víðar í píslarsögunni, að alþýðuhugsunarháttrinn stingr fram höfðinu. Þess er t. a. m. getið um þjónana, sem höfðu Jesúm til gæzlu meðan hann var í sínu fyrsta varðhaldi, áðr en prestaráðið hélt fund sinn út af máli hans, að þeir hafi hrækt í andlit honum, gjört gys að honum, slegið hann, sumir með hnefum og sumir með lófum, hafi byrgt fyrir augu hans, slegið í andlit honum og sagt: „Spá þú, hver það var, sem sló þig", o. s. frv. Þá er Pílatus hafði lokið sínum heimskulega handaþvotti, með þeim ummælum, að hann væri sýkn af blóði þessa réttláta manns og að þeir skyldi sjá fyrir því, þá hrópaði allr lýðr: „Komi blóð hans yfir oss og börn vor." Og þegar Jesús var uppnegldr á krossinn, þá sýnist alþýða manna óðar hafa tekið til, er hún gekk þar fram hjá, að atyrða hann, hrista yfir honum höfuð sín, brigzla honum um ýmislegt, er hann hafði áðr sagt, og mana hann, ef hann væri guðs sonr, að stíga nú niðr af krossinum. — Svona kemr alþýðan fram gagnvart þeim mesta alþýðuvini, sem nokkurn tíma hefir lifað. Svona ver alþýða öllu því frelsi, sem hún á, þegar þessi sama alþýða er orðin að guðlausum skríl. Það er óhætt að bera dýpstu lotning fyrir þessu orði, *frelsi*, en það er líka óhætt að hræðast þetta orð — *frelsi* —, þegar það er í höndum eða munni eða hjörtum þess

fólks, sem eins stendr andlega á fyrir eins og þeim, sem til forna kröfðust krossfestingar og dauða Jesú.

Jesús er ekki líkamlega og sýnilega hjá oss á lífi. Og Barrabas vitanlega fyrir löngu dauðr. En málefni hins krossfesta Jesú Krists er hér hjá oss og því málefni fylgir frelsarinn hvervetna, þótt ósýnilegr sé, því hann lifir enn og deyr aldrei. En það er líka til hjá oss það, sem vér getum kallað málefni Barrabasar, þótt persóna hans sé ekki á lífi. Hann var ræningi og manndrápari, ekta stigamaðr, þessi Barrabas. Og sami andinn, sem rak hann áfram út á sinn eyðileggingarferil, lifir enn í hinum lægstu og ljótustu lögum mannfélagsins. Það er aflið, sem dregr eða leitast við að draga alþýðuna niðr í sorpið. Það er afl hins misbrúkaða frelsis. Það er aflið, sem gefr öllum hinum óguðlegu, dýrslegu og djöfullegu fýsnum hins spillta manneðlis lausan tauminn. Það er aflið, sem setr frekjuna og heimskuna og illgirnina upp á veldsstólinn og berst þar í nafni frelsisins á móti öllu því, sem er satt og rétt og gott. Hin kristna kirkja vor leiðir mynd Jesú Krists hins krossfesta fram fyrir almenning og býðr honum það frelsi, sem hann hefir á boðstólum, og sýnir hverjum einstökum, hvílíkr sá andi er, sem frelsi hans er samfara. Sjá hefir mátt í liðinni tíð ávexti hvorstveggja þessa anda í mannfélagi voru, og sjá má þá vissulega enn. Um tvennskonar frelsi á hver einstakr meðal fólks vors kost á að velja: frelsi Jesú Krists og frelsi Barrabasar-andans. Frelsi vilja allir hafa. Frelsi hljóta allir að hafa. Allir eru skapaðir með frjálsræði, og það þýðir, að allir eiga að eiga frelsi og ráða sjálfir yfir því. Þú, hver sem þú ert, hefir frelsi til að slá þér í þann mannhópinn, sem lætr anda Jesú ráða yfir sér. En þú hefir líka frelsi til að fylla þann flokkinn, sem heimtar, að Barrabas sé látinn laus og gjöri allt, sem honum þóknast. En þegar þú velr um þessa tvo kosti, þá mundu vel eftir því, að ástœðurnar eru nú alveg hinar sömu og til forna, þó að nú sé frelsisöld, en þá væri ófrelsisöld. Ef þess er krafizt, að Barrabas fái að lifa og halda áfram að vaða uppi, þá er þar með að sjálfsögðu krafizt, að Jesús Kristr sé til dauða dœmdr. En vilji menn, að Jesú Kristr lifi hjá sér, þá þýðir það dauða þess anda, sem Barrabas stjórnaðist af, hjá þeim sömu mönnum.

Ó, að öll vor alþýða væri andlega frjáls! Ó, að hún gæfi

sig öll undir það andlega afl, sem gjört getr alla menn andlega frjálsa? Vér höfum bent á, hvar þess andlega afls er að leita. Það er hjá honum, sem alþýða Gyðinga útskúfaði, þegar hún bað um að Barrabas væri gefinn laus. Og menn fá þetta andlega afl hjá honum, þegar þeir leyfa sannleiksorðinu hans inngöngu í sálir sínar og láta það vera ljós á vegum sínum og lampa fóta sinna.

Það var á endanum hvorki hinn hrœsnisfulli Kaífas, né hinn vantrúaði Pílatus, sem réð því, að Jesús var deyddr, heldr hið frjálsa atkvæði alþýðunnar. Nú er frelsisöld fyrir alþýðu, og þá er auðvitað, að það er nú margfalt fremr en í fornöld komið undir almenningsáliti, hvort það, sem illt er, eða það, sem gott er, verðr ofan á í mannfélaginu. Hinir einstöku, sem kallað er að völdin hafi nú, hvort heldr í kirkjulegum eða veraldlegum málum, gjöra minnst til með tilliti til þess, hvað verðr ráðandi stefnan í mannfélaginu. Þótt þeir væri sama eðlis og þeir, sem œðst höfðu völdin hjá Gyðingum til forna, þá væri ekki mikið að óttast, svo framarlega sem almenningsálitið fœri í réttu áttina. Það er almenningsviljinn, sem nú ræðr öllu, eða getr öllu ráðið — að minnsta kosti hér í lýðstjórnarlandinu, Ameríku. Úr því alþýða er frjáls, þá getr hún ekki lengr skotið skuldinni upp á þá Kaífas eða Pílatus, ef illa fer.

Láti menn þá ekki almenningsálitið hjá oss komast að sömu niðrstöðu og það komst forðum hjá Gyðingum. Láti menn ekki það brot af alþýðunni verða ofan á, hvorki í trúmálum né neinum öðrum málum, sem myndi dœma alveg eins og alþýða Gyðinga í Jerúsalem dœmdi í máli því, er Pílatus skaut undir hennar úrskurð. Hafi menn ávallt söguna um það, hvernig almenningsálitið hjá Gyðingum kom fram í máli frelsarans, í huganum. Hafi menn hana æfinlega til taks eins og skuggsjá til þess að líta í og sjá, hve hörmulega fer, þegar alþýða misbrúkar frelsi sitt. Og láti fólk vort þá skuggsjá aldrei verða spegil, sem sýni því myndina af sjálfu sér, heldr láti þvert á móti allir skuggsjá þessa gefa sér heilaga hvöt til þess með lifandi trú á frelsarann og hans sannleiksorð að vinna að því, að sannarlegt alþýðufrelsi verði hjá oss ráðanda, frelsi, sem rekr allan óguðleik og alla heimsku og allan skrílsbátt út úr hjörtum og heimilum, en bindr menn við Jesúm Krist hinn krossfesta í lífi og dauða.

# Hermon.

Frá ummyndan frelsarans á fjallinu segja þrjú fyrstu guðspjöllin (Matt., Mark., Lúk.), og Pétr minnist þess atburðar einnig í síðara bréfi sínu. Fjallið, þar sem ummyndanin fór fram, er hvergi nafngreint í nýja testamentinu, en því hefir lengst af verið trúað samkvæmt eldgamalli munnmæla-sögusögn, að það hafi verið á fjallinu Tabor spölkorn austr frá Nazaret, en suðvestr frá suðrenda Genesaretvatnsins, í Galíleu sunnanverðri. En ef gætt er að því hjá Matteusi og Markúsi, hvar Jesús var staddr, þegar næsti atburðr gjörðist, sem frá er sagt úr æfisögu hans á undan ummyndaninni, þá verðr auðsætt, að ummyndanin hlýtr að hafa farið fram á öðru fjalli en fjallinu Tabor. Sex dögum áðr hafði Símon í viðrvist Jesú og hinna lærisveinanna gjört þá miklu játning, að lærimeistari þeirra væri Kristr (Messías), sonr hins lifanda guðs, og út af þeirri játning fengið frá Jesú heiðrsnafnið Pétr (hellusteinninn). Á þeim tíma voru þeir staddir í nánd við bœinn Sesarea Filippí við norðrtakmörk Gyðingalands, svo að segja við upptök Jórdan-ár, í umdœmi Filippusar fjórðungsstjóra, út frá norðaustrhorni Galíleu. Á þeim sömu stöðvum er Hermon, hæsta fjallið í öllu Gyðingalandi, örskammt austr frá suðrendanum á fjallgarðinum fræga Líbanon. Hermon gnæfir meira en 9 þúsund fet upp yfir flöt Miðjarðarhafsins og 11 þúsund fet upp yfir Jórdan-dalinn. Við rœtr þess sunnanverðs lá bœrinn Sesarea Filippí. Og hlýtr það að vera þetta fjall, sem við er átt í sögunni um ummyndanina. Matteus (17, 2) talar líka um fjall það, er ummyndanin framfór á, sem „hátt fjall“, en í samanburði við Hermon er Tabor tiltölulega lágt fjall. Á Tabor var á þeim tíma kastali með rómversku setuliði í og þess naumast nokkur kostr að hafast þar við „einslega“ — fjarri augum óviðkomanda fólks, en til þess valdi Jesús sér einmitt fjallið, þar sem þessi atburðr gjörðist, að hann gæti verið þar, á afviknum stað, í næði með hinum þremr útvöldu lærisveinum sínum, Pétri, Jakobi og Jóhannesi. Ekki fyr en síðar hverfr Jesús suðr til hinna vanalegu stöðva þeirra lærisveinanna í Galíleu (sbr. Mark. 9, 29 og Matt. 17, 22 og 24). Svo allt talar þannig á móti því, að Tabor geti verið fjall ummyndunarinnar, en

bendir í þess stað á Hermon-fjallið. Hátt uppi í hlíð þess fjalls hefir Jesús eflaust verið staddr með lærisveinunum, þegar hið dýrðlega og yfirnáttúrlega atvik kom fyrir. Efsti tindr Hermons er sí og æ snævi þakinn. Frægum enskum guðfræðingi, sem flestum mönnum er fróðari um fornar sögustöðvar í landinu helga, farast svo orð: „Að eins einn stígr liggr upp eftir fjallinu (Hermon) frá Sesareu, og blasir þaðan við manni land fyrirheitisins alla leið suðr til fellanna umhverfis Jerúsalem og álíka stórt svæði af heiðingjalöndunum í austri og suðaustri. Það er stórkostleg og fögur sjón. Hátt upp í hlíð þessa fjalls með hinu mikla útsýni jafnt yfir lönd heiðingja og Gyðinga, fjallsins, sem lærisveinarnir svo oft hafa hlotið að stara á sunnan úr Galíleu, — upp þangað héldu þeir nú með Jesú undir sólarlag. Sólsetrið á Hermon er merkilega dýrðlegt: Loftið er fyrst rósrautt; síðan dökknar roðinn allt í einu, en bliknar svo bráðum upp, eins og væri ímynd dauðans. Rökkrið fellr yfir, en í gegnum dimmu rökkrsins má sjá glampann af hinum snjóhvíta jökultoppi fjallsins. Skugginn af Hermon nær yfir sjötíu mílna svæði á undirlendinu út frá fjallinu."

Í 42. sálmi Davíðs er fjallið Hermon nefnt. Þar stendr svo í íslenzku biblíunni: „Eg minnist þín í Jórdanslandi og frá Hermon, því litla fjalli" (6. v.), og mætti eftir þessu ætla, að Hermon væri eitthvert smáfell. En sá lesmáti, sem farið hefir verið eftir í íslenzku biblíunni, er naumast réttr, enda er þetta öðruvísi í ensku biblíunni, endrskoðuðu útgáfunni. Orðin hljóða þar svo: *I remember thee from the land of Jordan, and the Hermons, from the hill Mizar*, sem á íslenzku ætti að vera: „— — — frá landi Jórdanar og Hermonstindum, (og) frá Mízar-felli". Og þykir líklegt, að fell þetta, er Mízar er nefnt, sé hnúkr einn skammt frá Hermon.

---

Þekking út af fyrir sig er einskis virði. Þekking er oft gagnslaus, og oft jafnvel til ills. Engu að síðr eru þeir menn til, sem þykjast stórum af tómri þekking á því eða því, án alls tillits til þess, hvort sú þekking kemr að nokkrum notum. Og langt um fleiri eru þeir, sem eyða miklu af tíma þeim, er þeir eiga yfir að ráða, til þess að afla sér þekkingar á því, sem algjörlega verðr þeim til ónýtis og er þess eðlis, að þeir hafa frá

upphafi haft gilda ástœðu til að ætla, að hún hlyti að reynast öllum gagnslaus. En svo eru auk þessa margir bæði meðal eldri manna og yngri, sem eiga í fórum sínum þá þekking, sem betra væri fyrir þá að vera án. Útvalins eðlis verðr þekkingin að vera til þess hún verðskuldi að vera eign vor eða að eftir henni sé sótt. þetta er hvergi sannara en þá er um guðfrœðislega þekking er að rœða. Spurningar þær, er leitendr eftir trúarlegum sannindum eiga erviðast með, snerta efni, sem þeim er alveg gagnslaust að þekkja. Í heimi trúarinnar er margt, sem æfinlega hlýtr að vera oss hulið, og það, að svo hlýtr að vera, ættum vér að láta oss lynda. Löngun eftir þekking í þeim eina tilgangi að eignast hana hefir með réttu verið nefnd með hinu óvirðulega nafni — forvitni.

Phil. *Sunday School Times*.

---

Á tímaritið norska, *For Kirke og Kultur*, sem út er gefið í Kristjaníu í Norvegi, er minnzt í smágreininni frá séra Steingrími þorlákssyni í síðasta blaði „Sameiningarinnar“. það er mánaðarrit, og koma einar fjórar arkir út á mánuði hverjum í 8 blaða broti. það hófst í Janúar í fyrra, og er því nú rúmlega ársgamalt. Í ritstjórninni eru þeir Christopher Bruun, sem um nokkur ár (1884—1888) gaf út hið ágæta kirkjulega mánaðarrit *For frisindet Christendom*, og Thorvald Klaveness, sem hin aflmikla rœða í Desember-nr.i *Sam.* er eftir. Janúar-nr.ið síðasta af *For Kirke og Kultur* hefir verið sent oss frá ritstjórninni og höfum vér lesið allar ritgjörðirnar, sem í því standa, með mestu ánœgju.

---

Oss hefir verið sent 1. nr.ið af *Framsókn*, nýju mánaðarblaði dálitlu, sem með þessu ári hefir byrjað að koma út á Seyðisfirði. það á að vera málgagn íslenzkra kvenna, og standa fyrir útgáfunni frú Sigríðr þorsteinsdóttir, kona hr. Skafta Jósefssonar, ritstjóra „Austra“, og jungfrú Ingibjörg, dóttir þeirra hjóna, höfundr skáldsögunnar „Kaupstaðarferðir“, er kom út á Akreyri árið 1888. þetta byrjunarblað „Framsóknar“ bendir á bindindismálið sem það mál, er hendinni sé næst fyrir íslenzkt kvennfólk að styðja. Vill blaðið, að kvennþjóðin íslenzka ljái fylgi sitt til þess að Ísland verði á undan öðrum löndum í því að „hrista af sér hlekki Bakkusar og yfirstíga allt böl ofdrykkjunnar“. „Framsókn“ ætlar augsýnilega ekki að fylla hóp þeirra af íslenzku blöðunum, sem hafa horn í síðu kristinnar trúar, og er það þakkarvert. Verð blaðsins hér í landi er 40 cents (1 kr. 50 a.). — Annað íslenzkt kvennmálablað kvað vera væntanlegt frá Reykjavík. Frú Bríet Bjarnhéðinsdóttir, kona Valdemars Ásmundssonar, ritstj. „Fjallkonunnar“, stendr fyrir útgáfu þess.

Febrúar-nr.ið af „Kirkjublaðinu" er þegar komið, og er í því meðal annars kvöldsálmr eftir séra Valdemar Briem, sem byrjar svo: „Dagr líðr, fagr, fríðr". Hann er svo meistaralega orktr, sá sálmr, að vér getum ekki stillt oss um að benda sérstaklega á hann, enda þótt „Sameiningin" stöðugt sé að leggja nýja og nýja ágætissálma frá séra Valdemar fram fyrir lesendr sína. Notum vér um leið þetta tœkifæri til þess að hvetja landa vora hér vestra til að gjörast kaupendr að „Kirkjublaðinu", miklu fleiri en enn þá er orðið. Fjárhagr þess blaðs er all-erviðr, svo erviðr, að ritstjórinn, séra Þórhallr Bjarnarson, hefir látið á sér skilja, að ef ekki raknaði til muna úr á þessu ári, myndi hann eigi sjá sér fœrt að halda blaðinu lengr út en þennan árgang (5.) til enda. Hörmulegt væri, ef til þessa þyrfti að koma, þar sem þetta, svo sem kunnugt er, er eina málgagn kirkjunnar á Íslandi. Ætti oss íslenzkum kirkjumönnum hér í landi að vera bæði ljúft og skylt að styðja að langlífi þess. Nýir áskrifendr að „Kirkjublaðinu" geta nú fengið allt, sem komið hefir út af því frá byrjan ásamt 5. árganginum, og enn fremr „Smáritin" öll, sem því hafa fylgt í seinni tíð, fyrir að eins einn dollar, að viðbœttum nokkrum (12) centum í burðareyri. Þetta auglýsir hr. Vilhelm Pálsson, umboðsmaðr blaðsins hér í Winnipeg. Lengi stendr boð þetta auðvitað ekki, en svo margir, sem geta, ætti að nota sér það.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1895.

1. lexía, sunnud. 7. Apríl: Hin konunglega innreið Jesú til Jerúsalem: Mark. 11, 1—11.
2. lexía, sunnud. 14. Apríl: Hinir illu vingarðsmenn: Mark. 12, 1—12; eða: páskalexía: 1. Kor. 15, 3—14.
3. lexía, sunnud. 21. Apríl: Vakið: Matt. 24, 42—51.
4. lexía, sunnud. 28. Apríl: Kvöldmáltíðin: Mark. 14, 12—26.

ATH. Í Janúar-nr.inu hefir óvart fallið burt 13. lexían í fyrsta ársfjórðungi, fyrir sunnud. 31. Marz: Yfirlit.

---

Í *skólasjóð:* áheiti frá ónefndri konu í Wpeg $1.00. Til *bókasafnsins* gefið af séra Þórhalli Bjarnarsyni í Reykjavík 2 eintök af 4 fyrstu árgöngum „Kirkjublaðsins", og af hr. kennara Halldóri Briem 4 eintök af „Íslenzkri mállýsing" eftir hann sjálfan.

---



PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.